# Fráſaga,

sem ſýnir, hvørſu Gud, án allrar mannligrar medverkunar, getur, fyrir leſtur Biblíunnar, umvendt einni manneſkju og hana ſáluhólpna gjørt.

---

Tvær úngar ſtúlkur, ſem þó kriſtnar ættu ad heita, lifdu eins og foreldrar þeirra, í fullkomnaſta hirdu-leyſi um Gud og ſína ſáluhjálp.

Mikid ſjaldan láſu þær í Ritníngunni, og þó þær eitthvad læſu, láſu þær þad án allrar andakt-ar, og mikid ſjaldan hyrdtu þær um ad fara til kyrkju, ad heyra eina Evangeliſka prédikun. Nú bar ſvo til, ad ein þeſsara ſyſtra vard ſjúk, og þad ſvo frekt, ad hún miſti allan róm, og nærri málid. Drottinn ſjálfur, ſem nær hann vill, eingra manna adſtodar vid þarf, víſadi þá ſálu hennar til Biblí-unnar, hvørja hún tók því óaflátanliga ad leſa, jafnvel þó náúngar hennar hyrdtu þar ekkért um, en ſkiptu ſér ſamt ekki af því. Audſýndi þá Biblían ſinn guddómlega krapt í hjarta hennar, og hin ſjúka bar ſig ad gjøra þad ſyſtrum ſínum ſvo ſkiljanligt, ſem hún gat, ad ſyndir ſínar þreyngdu faſt ad ſam-

vitsku sinni, og að hún vildi gjarnan fara á fund Föður síns. Systur hennar, sem alls ekkért skildu af því sem Guðs anda tilheyrir, héldu að hún vildi finna sinn holdliga föður, til að biðja hann fyrirgéfníngar á einhvörjum brestum og yfirsjónum sínum, sem hana móti honum hendt hefðu, en hún bar sig að gjöra þeim skiljanligt, að þess þyrfti hún ekki við, því hún hefði alltíð verið honum hlýðið og eptirlátt barn. En hún bendti með fíngri sínum til himinsins, og svo, midt undir brennheitum andvörpunum, andaðist strax eptir það, sem eitt sannarligt Guðs barn, sem við sinn himneska föður, fyrir Jesúm Krist, forlíkt er. Við hennar dauða þreyngdi sér þánki sá, sem ein heimugliga Guðs raust, gégnum hjarta annarar hennar systur: „Þú munt nú brádliga fylgja á eptir henni!" Og þessi ótti knúði hana, fyrir leiðslu þess sama anda, er í hinni verkað hafði, til þess að fara að lesa hina sömu heil. bók. Hún bjó sig þess vegna undir sína burtför af heiminum, héldt sig frá öllum veraldligum ánægjusemdum og sýslunum, og lifði einúngis til þess að biðjast fyrir og lesa Biblíuna. Nú uppfyllti brádliga friður Drottins sálu hennar, og ekki alllaungu þar eptir varð hún yfirfallin af brjóstveiki; og foreldrar hennar létu hana því taka fyrir sig reisu eina, sem sumpart átti — eptir læknira ráði — að þéna henni til heilsuléttirs, en sumpart og svo til að drífa þær (píetisku-edur) guðhræðslu grillur frá henni, því með slíku forakti álíta opt holdlega sinnaðar manneskjur guðhræðsluna. En á þessari reisu edur ferð fylgdi hún fyrir dauðann brádliga eptir systur sinni og lét lífið, full af sömu von og trú, sem hin það látið hafði.

Þessar umvendanir sagdra manneskna urdu hin-
um fjórum ødrum systrum þeirra, sem verid høfdu
hjá þeim í sjúkdómi þeirra, til svo sterkrar upp-
vakníngar, ad þær snéru sér og svo til Biblíunnar,
og tóku ad lesa hana med sannri ydrun og andakt;
svo þegar þær, vid endalok reisu þeirrar, sem systir
þeirra hafdi, í fylgd med þeim, hast í áformi, komu
á þann stad, hvar einn kristiliga sinnadur prestur var fyr-
ir, hafdi hann þá gledi, ad taka þar á móti 4um
gudhræddum og sanntrúudum úngum manneskjum,
hverjar nærfeldt án allrar uppfrædíngar, af mønnum
til, høfdu einúngis fyrir lestur heil. Ritníngar um-
vendst og fundid nád hjá Gudi, samt uppfylltar ordid
af fridi og føgnudi heil. anda. Af þessum dæmum
sjáum vér:

**Fyrst:** hvílíkur kraptur fylgi heil. Ritníngu, sé
hún réttiliga brúkud, því hún er kraptur Guds til
sáluhjálpar, þeim sem henni trúa, og hún er lampi
fóta vorra, og ljós á veigi vorum til eilífdarinnar.

**Þarnæst** lærum vér hér af, hvørnig lestur Ritn-
íngarinnar vera skuli, eigi hann sálunni ad gagna.
Honum á nefnil: ad fylgja heit og alvarlig ydrun-
arbæn til Guds, í Jesú nafni; án þess hún fylgi,
verdur lesturinn ad sára litlum notum fyrir hjartad;
menn sleika þá nytina, en sleppa kjarnanum, og lest-
ur hennar er þá á nærstu trøppu því, ad leggja Guds
nafn vid hégóma.

**Í þridja lagi,** má einginn sá, sem metta vill
af Guds ordi sálu sína, skeyta um, hvørsu adrir
um þad dæma, þó þeir áliti þad grillur edur sinn-
isveiki, og jafnvel hlæi ad manni og forsmái hann
fyrir þad, heldur skal hann sinni fyrirtekt eins fram-

halda, en biðja fyrir hinum, að þeir endurvitkist úr Satans snörum.

Í fjórðu grein sjáum vér hér af, hvílíka blessaða verkun að umvendan einnrar manneskju kann að hafa hjá öðrum, þó í fyrstu lítið áberi, ef hún hættir ekki við að láta sitt ljós fyrir þeim lýsa, þá kann hún með sínu eptirdæmi, að vekja óformerkt annara eptirþánka.

Í fimta máta, sannast hér af, hvörsu að kross og þjáníngar eru nytsamligar, og optliga stór velgjörð af Guði. Því hvað var það, sem vakti þá fyrstu af áður sögðum manneskjum til að hugsa um sálu sína, og til að leita sér huggunar í Guðs orði, annað enn krossinn? Krossinn og ydranin deyða þann gamla mann í oss, en trúin, bænin og Guðs orð lífga þann nýa.

Í sjötta lagi sjest hér af, að ávöxturinn likist sæðinu; sæðið er Guðs lifanda orð, vætkað með bæninni og vökvað af heil. anda í hjarta manns; hvar af þá sprettur helgað hugarfar innvortis, og sanndygdugt líferni útvortis.

Og loksins í síðasta máta flýtur þar af sá sanni friður samvitskunnar, fögnuður í heil. anda, hughreysti í dauðanum, frikénning í dóminum og farsæld um alla eilífð.

Guð géfi öllum sem heil. Ritníngu eiga eður eignast, að brúka hana þannig!

---

Eptir Miss. Blad. frá Barmen, í Þýskalandi 1840, No. 3.

